Anno 1719. þañ 7. Septembris kom mier i Hønd
epterskrifad Document, er Edla Nr. Løgmadureñ Paall
Vidalin, Oskar þessa Ars Þyng-Book þilgia
mætte/ Þad er so laatande.

Ollum goodum Møñum i mynu Løg-Dæme Suñañ og Austañ hier a Lande/ Heilsa eg Underskrifadur Paall Vidalin Løgmañ/ med øllum goodum Oskum. Ydur sie Vitañlegt/ ad hvør ydar sem Naudsyn kañ til ad bera/ ad taka Løg-Þynges Stefnu under Løgmañs Signete/ þa kañ sa ad giora þad him Nr. Vice-Løg-mañenum/ Edla og Vel-vyssum Niels Kier/ og mun hañ Eþalaust gegna þeim Erendum miña vegna/ fyrer billiga Skriþara Peninga/ so sem eg hefe hañ umbeded Breþlega / uppa þad aungvum ydar skule verda Mein edur Bage ad þvi/ ad mitt Heimile sie nockru þiær sumum ydar / helldur eñ hañs Heimile. Eþ ad añars nockur ydar vill sækia slykt Erende heim til myn/ þa stendur þad hverium ydar i Siaalfs-Vallde/ og skal eg þeim þa giarnañ gegna (loþe Gud) Eñ hitt er ydur tilboded/ sem nu er sagt. Þetta mitt oped Bref/ Oska eg Løg-Þyngs Skriþareñ Mons: Sigurdur Sigurdsson iñføre Bak vid næstlidens Alþynges Book/ øllum Hlutadeigendum til Vitundar. Eg er ydar gooder Meñ i miñe Embættes Skylldu Þienustu reidubueñ.

Vydedals-Tungu þañ 3. Augusti Anno 1719.

Paall VIDALIN.

Riett effter Originalnum ad vera Testerar
Sigurdur Sigurdsson.